# SAMEININGIN.

*Mánaðarrit til stuðnings kirkju og kristindómi Íslendinga, gefið út af Hinu ev. lút. kirkjufélagi Íslendinga í Vestrheimi.*

---

SEXTÁNDI ÁRGANGR:

Marz 1901—Febr. 1902.

---

RITSTJÓRI

*JÓN BJARNASON.*

---

ÚTGÁFUNEFND:

JÓN BJARNASON, FRIÐRIK J. BERGMANN, ÓLAFR S. ÞORGEIRSSON,
BJÖRN B. JÓNSSON, N. STEINGRÍMR ÞORLÁKSSON.

---

WINNIPEG

PRENTUÐ Í PRENTSMIÐJU LÖGBERGS.

# EFNI:

# Sameiningin.

*Mánaðarrit til stuðnings kirkju og kristindómi Íslendinga. gefið út af hinu ev. lút. kirkjufélagi Ísl. í Vestrheimi.*

RITSTJÓRI *JÓN BJARNASON.*

16. árg. WINNIPEG, MARZ 1901. Nr. 1.

## Jesús í Getsemane.

SÁLMR EFTIR SÉRA VALDEMAR BRIEM

út af Matt. 26, 36—46 (Mark. 14, 32—42; Lúk, 22, 39—46).

(Lag: Hvað hefir þú, minn hjartkær Jesú, brotið?).

1. Að hugsa sér það, drottinn dýrðar ranna,
að dauðans angist varzt þú hér að kanna,
en aftr mig, það dauðans duftið veika,
svo dátt mér leika.

2. Þú stiginn varst úr himinsölum háum,
en hlauzt að krjúpa' að jarðarbeði lágum,
svo mig þú upp úr ánauð heimsins reistir
og endrleystir.

3. Þú einn í myrkri lengi varzt að líða,
þú ljósið heimsins yndislega' og blíða,
svo gleddist eg í háum ljóssins höllum
með hólpnum öllum.

4. Þín sál varð hrygg og sorgmœdd allt til dauða,
er sárt þú kenndir allra mannkyns nauða,
svo fögnuð eg og sannan sigr hlyti
og sælu nyti.

5. Þú þrisvar sinnum baðst þinn föður blíða,
að bikar þessi mætti hjá þér líða,

Eg þúsund sinnum þess hef líka beðið
og þannig kveðið.

6. ,,Ef kostr er", þú bættir við, hinn blíði,
,,eg bikar þessi kýs að hjá mér líði."
Þeim bljúgum gleymi' eg bœnarorðum þínum
í bœnum mínum.

7. Þú baðst: ,,Ei verði vilji minn, ó, faðir,
en vilji þinn", svo heitt þú andvarpaðir.
Að vilja guðs ei vilja minn eg hneigi,
það vil eg eigi.

8. Þú, Jesú minn, þú stóðst í hörðu stríði,
en styrk þér veitti faðir þinn hinn blíði.
Svo styrk þú mig í stríði hörðu mínu
með stríði þínu.

9. Þar ljós þú sást í dauðans dimma skugga,
þig drottins engill sendr var að hugga.
Mér engil send að styrkja mig og styðja,
að stríða' og biðja.

10. Þú baðst svo heitt, þú grœðarinn minn góði,
að grundin jafnvel draup af þínu blóði.
Þíns dreyrasveita döggin varma' og bjarta
mér drjúpi' á hjarta.

11. Ó, drottinn minn, í dauðasveita mínum
þú dreyp á mig úr lífsins bikar þínum.
Sá dýrðarinnar gleði-bikar blíði
ei burtu líði.

## Langafastan.

Tíðaskifti kirkjuársins, þau er að meira eða minna leyti eru ráðandi í lútersku kirkjunni, er æfa-gömul. Þau urðu til snemma á fornöld kristninnar. Trúartilfinning hinna fornkristnu kynslóða réð upprunanum. Og uppruninn var náknýttr við hina heilögu persónu mannkynsfrelsarans sjálfs. Fyrst kom til greina píslarsaga hans og dauði. Jesús á kross-

ferlinum. Jesús líðandi og deyjandi. Friðþægingarfórnin ó-umrœðilega, sem hann bar fram mannkynssyndarinnar vegna. það var hin mikla meginhugsan trúarinnar, er fram leiddi hina há-alvarlegu, heilögu föstutíð, sem næst þeim tíma á árinu, er hann, guðs eigin elskulegr sonr, gekk píslir sínar í gegn um. Hún var stutt fyrst, sú föstutíð, en smálengdist og varð loks langafasta, og um leið móðir allra kirkjuárstíðanna hinna.

það urðu tíðaskifti um þvert og endilangt brezka ríkið, þegar Victoría drottning skildi við. það kom nokkurskonar föstutíð yfir lönd og lýði þess ríkis þá. Og sú föstutíð er ekki alveg út runnin enn. Hví skyldi þá ekki eitthvað líkt, enn þá meira, óendanlega miklu meira, koma fram í kristna heiminum, þegar menn á ári hverju nálgast þann tímans punkt, er Jesús, hinn algóði konungr himins og jarðar, fórnaði sjálfum sér syndugra manna vegna í hinni miklu heilögu píslarsögu? Ekkert sýnist eðlilegra og sjálfsagðara en það.

Föstutíðin þessi með þeim sérstaka kirkjulega boðskap, sem henni heyrir til, minnir oss alla á það, að það sé heilög skylda vor að þakka fyrir krossinn, ekki að eins kross Krists, heldr líka kross lærisveina hans, vorn eigin kross. Sárar og hræðilegar eru krosstíðirnar á mannsæfinni ávallt, stundum óumrœðilega sárar og hræðilegar. það segir fastan. En beztu og blessunarríkustu tíðirnar hafa það ávallt verið á æfi lærisveina Jesú. það segir fastan líka. Hví skyldi ekki öllum kristnum mönnum þykja vænt um þá kirkjuárstíð, sem heldr svo skýrt þeim dýrmæta sannleik á lofti? Sá siðr, að hafa sérstaka árstíð til setta til þess að halda uppi píslarminning Jesú og láta þá tíð vera svo langa, láta meir bera á henni en nokkurri annarri kirkjuárstíð, hann ætti ágætlega að geta stutt að því, að kristið fólk fái skilið, hvað það er í guðs orði, sem aðal-áherzlan liggr á, hvað er meginmál kristnu trúarinnar æfinlega: Jesús krossfestr, og í annan stað, hvað aðalatriðið er í lífi lærisveinanna: það, að þeir afneiti sjálfum sér, taki á sig krossinn og fylgi svo á eftir frelsaranum.

Marg-oft ber það við í lífi manna, að mótlætið, krossinn, sorgin kemr svo hart við þá, að þeir geta hvorki neytt

svefns né matar. þær föstutíðir á mannsæfinni verða einatt að sannkölluðum langaföstum. Að almenningr sé aftr og aftr af kirkjunni minntr á þær sáru raunatíðir—það ætti að vera alveg sjálfsagt. En umfram allt hœfilegt og eðlilegt, að það sé gjört í sambandi við friðþægingarpíslir frelsarans, fyrir þá sök, að þaðan kemr guðleg blessan streymandi út yfir gjörvallt böl mannlegs lífs, blessan, sem ummyndað getr hverja einustu böltegund, gjört hana að himnesku náðarmeðali, er þakka má fyrir af hrœrðu hjarta í Jesú nafni. — þótt vér ekki í bókstaflegum skilningi föstum á þessari kirkjuárstíð, sem nú er yfir oss að líða, fremr en á öðrum tímum, látum þó nafnið ,,langafasta" lifa hjá oss, eins og heilagt merki til þess að minna oss á kross Jesú og kross lærisveinanna að fornu og nýju, og þá um leið knýja oss til kristilegrar trúaralvöru.

---

## Hin ,,hærri kritík".

Eftir Jón Bjarnason, ritstjóra ,,Sam."

Málið um hina svo kölluðu ,,hærri kritík" er nú komið á dagskrá í íslenzku kirkjunni. Séra Jón Helgason, kennari við prestaskólann í Reykjavík, hefir hleypt því á stað með ýmsum greinum í blaði sínu ,,Verði ljós!" og enn fremr með fyrirlestri þeim, er hann flutti á *synodus* í sumar sem leið um Mósesbœkrnar og síðan var undir eins prentaðr í Tímariti íslenzka bókmenntafélagsins. það, sem síðast hefir til hans heyrzt í þá átt, er í ritdómi hans um fyrirlestr séra Björns B. Jónssonar um guðlegan innblástr heilagrar ritningar, þann er prentaðr var í ,,Aldamótum" IX. Og út af þeim ritdómi hefir nú séra Björn byrjað á því að skýra málið frá sínu sjónarmiði hér í ,,Sam." Einnig hefir séra Friðrik J. Bergmann látið til sín heyra um biblíukritíkina nýju, fyrst í stuttri ritstjórnargrein í ,,Aldamótum" frá því í hitt hið fyrra um leið og ritgjörð séra Björns birtist þar, og síðan í lengri grein í síðasta árganginum. Auðsætt er það öllum af því, er þeir séra Jón Helgason og séra Björn B. Jónsson hafa þegar látið til sín heyra opinberlega um þetta biblíurannsókna-mál, að skoðanir þeirra

á því efni fara í mjög gagnstœðar áttir. Að því er snertir ritstjóra „Aldamóta", þá hallast hann fremr að skoðan séra Jóns, en fer þó hœgt og vill, að menn kirkjunnar flýti sér ekki að trúa hverju nýmæli, sem kemr úr þeirri átt, eins og það væri fullkominn guðlegr sannleikr.

Þó að eg nú fari að myndast við að leggja hér orð í belg með, þá veit eg, að á því verðr lítið að grœða. Helzti gróðinn verðr það, að lesendr „Sam." fá hér að heyra þá játning mína, að eg er alls ekki bær um það að dœma, hvort þessir menn, sem í biblíurannsóknum sínum hafa komizt að þeirri vísindalegu niðrstöðu, er séra Jón Helgason heldr fram, hafa í aðalefninu rétt eða rangt fyrir sér. Það vantar stórkostlega mikið á, að eg hafi þann lærdóm, sem til þess útheimtist að geta fellt nokkurn skaplega rökstuddan dóm um það mál. En eg má þá líka til að segja meira,—segja það, að hvorki séra Jón Helgason né neinn annar Íslendingr, sem nú er uppi, hefir heldr nógu mikla þekking á þessum sérstöku biblíufrœðum til þess að geta komið þar fram sem áreiðanlegr dómari. Menn geta sagt, hvað sér virðist sennilegast, en meira ekki. Því það er mjög fjarri sannleikanum, að þeir allir, sem nú á tímum hafa bezt vit á, samsinni því, að kenningar þær, sem séra Jón Helgason hefir eftir hinum ýmsu lærðu mönnum um tilorðning Mósesbókanna og annarra gamla testamentis rita, sé óyggjandi niðrstaða hinna vísindalegu rannsókna. Og meðan svo og svo margir hálærðir guðfrœðingar eru uppi í heiminum, sem frá vísindalegu sjónarmiði mótmæla þeirri niðrstöðu í kröftugasta máta, þá er varlegra fyrir hina alla, sem tiltölulega í samanburði við þá eru lítið lærðir, að forðast öll stóryrði. Séra Jón Helgason hefir farið of geyst á stað í þessu máli. Það getr verið, að skoðanir þær á gamla testamentinu, sem hann heldr fram, verði að ýmsu leyti ofan á í kirkjunni seinna meir. Að öllu leyti verðr það víst aldrei. En lang-líklegast, að meginið af þeim deyi út á líkan hátt og svipaðar skoðanir á nýja testamentis bókunum, sem bar svo mikið á meðal guðfrœðinga um miðja öldina síðast liðnu, eru nú nálega með öllu út dánar. Það er bezt, að vera ekki of bráðr á sér með staðhœfingar, hvorki með né móti.

Stórkostlega mikið hefir lærðustu fræðimenn vora greint á um það, á hvern hátt sum hinna ágætustu forn-íslenzku rita sé til orðin. Og sá ágreiningr heldr vitanlega enn áfram. Meðal nútíðar-málfræðinganna og sagnfræðinganna íslenzku, þeirra er mest-alla æfi sína hafa verið að eiga við vísindalegar rannsóknir því máli til skýringar, eru skoðanirnar mjög skiftar, — t. a. m. um það, hve nær og hvar Eddu-kvæðin gömlu hafi orkt verið, á hvern hátt Sturlunga saga hafi fengið sína núverandi mynd, hvað mikið af konungasögunum norsku sé upphaflega frá Ara Þorgilssyni, föður íslenzku sagnfræðinnar, að hve miklu leyti Njáls saga sé ritverk saman sett af fleiri minni frumsögum, hvort kynja-þjóðsagnirnar um Gretti í sögu hans sé útlendar eða al-íslenzkar að uppruna, o. s. frv. Væri nú nokkurt vit í því, að þeir af oss, sem að eins höfum meiri eða minni nasasjón á þessum fornu fræðum þjóðar vorrar, færi að gjörast dómarar í þessu vandasama ágreiningsmáli ,,lærðu'' mannanna, staðhæfa, að það, er sumir þeirra halda fram, sé óyggjandi sannleikr, algjörlega viðrkennd niðrstaða hinna vísindalegu rannsókna, en taka alls ekkert tillit til kenninga hinna mannanna, sem fara í gagnstæða átt? En ef í slíku athæfi væri ekkert vit, hve miklu fremr væri það þá óvit af oss að gjörast dómarar um það, hvort kenningar þær um tilorðning hinna ýmsu gamla testamentis rita, sem séra Jón Helgason heldr fram og hefir eftir ýmsum hebresku-fræðingum á Þýzkalandi og víðar, sé vísindalega sannaðar eða ekki. Því við það mál er margfalt erviðara fyrir oss að eiga en hitt. Gamla testamentis tíðin liggr oss svo afar fjarri, þar sem sú tíð, sem fornritin íslenzku eru við knýtt, er í samanburði við hina tíðina svo undr nálæg. Og í annan stað er tunga sú, er þessi síðar nefndu rit eru skrásett á, að mestu leyti móðurmál vort, þar sem gamla testamentið hins vegar er ritað á þeirri tungu, sem er oss svo afar fjarskyld og örðug viðreignar. Þekking alls þorra nútíðarguðfræðinganna í heiminum á hebresku, þeirra er þó hafa í skóla lært nokkuð í því tungumáli, er svo lítil, svo fátækleg og takmörkuð, að þar getr ekki verið að ræða um neina sjálfstæða skoðan á ágreiningsefni hinna lærðu gamla testamentis fræðinga. Hr. Haraldr Ní-

elsson, höfuðmaðrinn í því að bœta íslenzku þýðinguna á gamla testamentinu, er vafalaust lang-mesti hebreskufrœðingrinn, sem komið hefir fram meðal Íslendinga bæði að fornu og nýju. En þrátt fyrir þá yfirburði, sem hann hefir fram yfir alla aðra vorrar þjóðar manna, er þó lítt hugsanlegt, að hann — jafnvel hann — sé svo vel að sér í þeirri sérstöku frœðigrein, að hann sé fœrari að dœma um, hvað rétt sé í biblíu-kritíkinni nýju, heldr en eg og mínir líkar um ýms ágreiningsmál lærðu mannanna hinum forn-íslenzku bókmenntum viðvíkjandi, sem þegar hefir verið bent á.

Biblíukritík sú, er hér er um að rœða, á rót sína að rekja ekki til trúaðra guðfrœðinga, heldr vantrúaðra, lærðra manna, er afneituðu öllu því, sem vanalega er kallað yfirnáttúrlegt í kristindóminum. Þess ber vel að gæta. Biblíurannsókn slíkra manna er ekki sennilegt að nokkurn tíma geti orðið óhlutdrœg. Og þó að ýmsir, jafnvel margir, trúaðir guðfrœðingar hafi aðhyllzt ályktanir þeirra, þá er það þó engin fullnaðarsönnun fyrir því, að sannleikrinn sé aðallega þeim megin. Guðfrœðingarnir hafa marg-oft komizt í gönur, og svo getr vel verið enn, að því er þetta mál snertir.

En eitt ætti allir að geta skilið: það, að trúin á guðlegan innblástr biblíunnar getr ekki lengr staðizt í neinni þeirri mynd, sem að undanförnu hefir verið ráðandi í kirkjunni, svo framarlega sem kenningar þær, er séra Jón Helgason hefir haldið fram um tilorðning bókanna í gamla testamentinu, skyldi verða ofan á. Og þá hlýtr það að vera heilög skylda þeirra allra, sem fylgja vilja fram þeim kenningum, að gjöra almenningi skýra grein fyrir því, að hverju leyti ritningin sé guðinnblásin bók, nema því að eins, að það trúaratriði eigi með öllu að falla niðr. Og sé það tilætlanin, þá þarf líka að segja frá því opinberlega.

Það má búast við, að eigi svo fáir af íslenzku prestunum aðhyllist skoðanir þær á biblíunni, sem séra Jón Helgason heldr fram. Og það má búast við því einnig, að stœrra eða minna brot af leikmannalýð vorum taki við þeim skoðunum. Það þýðir trúarlega tvískifting ekki svo litla í kirkju þjóðar vorrar. Því vafalaust halda þó all-margir gömlu trúnni sinni

á biblíunni í lengstu lög, sem eftir því, er miðr góðgjarnlega er að orði komizt í „Verði ljós!" (síðasta ári, bls. 175), myndi þá stafa af því, að þeir vildi ekki sannfœrast láta. Slík tvískifting myndi verða enn meiri en aðskilnaðrinn á milli hinna ýmsu kristnu kirkjuflokka, þeirra allra að minnsta kosti, er prótestantiskir kallast. Það er slæmt, að öðru eins þrætuepli skuli vera kastað inn í íslenzku kirkjuna nú, þegar verst gegnir, nú þegar mest lá á, að trúaðr lýðr hennar héldi allr saman.

Ekki fæ eg annað séð en að þeir menn, sem bíta sig fasta í þessari nýju skoðan á biblíunni, standi ákaflega illa að vígi í baráttu sinni gegn hinum ýmsu trúarflokkum nútíðarinnar, sem andstœðir eru játningarritum lútersku kirkjunnar, en vilja þó í hjartans alvöru kristnir vera. Þegar ekki á lengr að duga að vitna til þess, er ritað stendr í ritningunni, sínu máli til sönnunar, og allt á að vera komið undir „trúarmeðvitundinni" eða hinni persónulegu trúartilfinning, þá er nákvæmlega sama lagið komið á eins og í hópi andstœðinganna, sem veiða það út úr guðs orði, sem er við þeirra skap, safna því í sinn sjóð og halda því fram sem fullkomnum kristindómi og heilli biblíu, en kasta hinu öllu, sem fer í bága við skoðanir þeirra, útbyrðis eða virða það vettugi.

Það er verið að eiga við endrskoðan og umbót á íslenzku biblíu-útleggingunni nú í Reykjavík. Séra Jón Helgason er því fyrirtœki hjartanlega hlynntr, enda að því er oss skilst vinnandi sjálfr þar með, að því er nýja testamentið snertir. Það er vel gjört af honum. En með þeirri skoðan á gamla testamentinu, sem hann leggr svo mikið kapp á að út breiða, gæti manni virzt, að ekki hafi sérlega mikið legið á því biblíuþýðingarverki. Hér ein er mótsögn. — Í annan stað líkar honaugsýnilega lakar hinn nýi barnalærdómr eftir Klaveness, sem að mestu leyti hefir aðhyllzt biblíukritíkina nýju, en hinn eldri eftir föður sinn séra Helga heitinn Hálfdanarson, sem algjörlega aðhylltist hina gömla skoðan á biblíunni. Líka þetta er mótsögn.

En setjum nú svo, að vísindamönnunum takist að sanna það til fullnustu, að uppruni gamla testamentisins og sérstak-



Kirkja Lincoln-safnaðar.

lega Mósesbókanna sé allt annar en kennt hefir verið frá alda öðli í kirkjunni. það er þó víst, að frelsarinn sjálfr á dögum sinnar jarðnesku holdsvistar gekk út frá sömu skoðan á því máli og kirkjan síðan stöðugt hefir aðhyllzt. Eins og það einnig er vitanlegt, að sama skoðanin, sama trúin, var alráðandi meðal Gyðinga á tímamótum hins gamla og nýja sáttmála og löngu löngu áðr. Sé nýja skoðanin rétt, þá hefir Jesú þar skjátlazt. Og verðr víst ervitt að sannfœra almenning um, að það komi ekki í neinn bága við óskeikulleik meginmálsins í kenning hans. það getr tekizt, og tekst vafalaust, ef nýja skoðanin á gamla testamentinu reynist sönn. En meðan slík fullnaðarsönnun hefir ekki fengizt er að minnsta kosti óþarfi að hætta trú alþýðu á áreiðanlegleik Jesú út á þann hála ís. Auðsætt er og, að hafi Jesús að ósekju getað haft skakka skoðan á gamla testamentinu, þannig, að sú skoðan ekki að neinu leyti hafi þurft að rýra sannleiksgildi boðskapar hans, þá ætti lærisveinum hans, líka á þessari tíð, að vera óhætt að lifa í sömu skökku skoðaninni. Og þess vegna fjarri því að vera neitt áríðanda fyrir framtíðarvelferð kristninnar að koma nýju skoðaninni að, þótt hún á endanum kunni að reynast hin rétta.

## Nokkur orð um ferminguna.

Eftir séra N. Steingrím Þorláksson.

(Framhald.)

Í skírninni kemst barnið í náðar-samfélag við drottin og verðr limr kristilegrar kirkju. Kirkjan á svo að annast um það sem lamb drottins og lim sinn. Ef hún vill vera trú köllun sinni og drottni sínum og hlýðin anda þeim, sem í henni er verkandi, þá verðr henni ekki unnt að láta sér standa á sama, hvort barnið skírða, einn meðlimrinn sinn, vaxi upp sem lifandi limr eða visni og deyi. Ef limið, sem á Kristi er gróðrsett í skírninni, á að lifa, má ekki með vanhirðing stöðva lífsrásina úr stofninum út í limið. Kirkjan heimtar það því af sjálfri sér samkvæmt því andans lögmáli, sem í henni er ráðanda, að þau andans lífsöfl, sem hún ræðr yfir,

flytjist, eftir því sem unnt er, til allra meðlima sinna, smárra og stórra. Að þetta geti orðið þarf að vera markmið hins kristilega barnauppeldis af hálfu foreldra barnanna og kristindóms-menningarinnar í kristnu skólunum og hjá prestinum; því kirkjan leysir þetta verk sitt af hendi, sálargæzluna og hirðinguna á barninu, í gegn um þessa þjóna sína, hin kristnu foreldri, hina kristnu skóla og prestinn. Hér þarf því að vera samvinna. Allir þessir þjónar drottins og kirkjunnar verða að vinna saman að því, að barnið *fermist*, *styrkist* og *staðfestist* í *skírnarnáðinni*. Á heimilinu á barnið stöðugt að vera að fermast. Í sunnudagsskólanum á það að fermast. Hjá prestinum á það að fermast.

Þegar barnið gengr til prestsins, þá gengr það ekki aðallega til „spurninga" eða „yfirheyrslu", — rétt eins og prestrinn ætti aðallega að komast eftir því, hvort barnið „kunni" eða hafi „lært" lexíuna sína, heldr gengr barnið til prestsins til þess að *staðfestast*. Prestrinn á aðallega að hjálpa barninu, svo það sjálft verði sér þess meðvitanda, hvað það hafi eignazt og hvað það eigi í skírnarnáðinni, hvers barn það sé, og hvernig það þurfi að lifa, svo það glati ekki þessari náð sinni, mestu auðlegð sinni, hinu guðlega barna-lífi sínu og barna-rétti. Þá er hann að ferma barnið, staðfesta það í skírnarnáðinni. Um þetta eiga líka kristnir barnakennarar og sunnudagsskóla-kennarar að hugsa. Og ætti engin hugsun að vera nokkrum foreldrum helgari né að vekja hjá þeim einlægari áhuga en það, að þetta gæti orðið, að börnin þeirra gæti þannig fermzt í anda og sannleika. Það ætti að vera samvinna hér, og mætti búast við henni. En er það samvinna, ef foreldrunum stendr á sama, þótt að eins fermingar-nefna komist á? Er það samvinna, ef þau biðja ekki fyrir barninu sínu né hjálpa að neinu öðru leyti til þess að það fermist í raun og veru? Er það samvinna, ef þau láta ekki barnið sjá það og finna til þess, að þau afneita því, sem það á að afneita, og játa það, sem það á að játa, heldr láta barnið hafa það fyrir augunum á sér, að kristindómrinn þeirra er kaldr, dauðr, tómr steingjörvingr?

Það hefir verið sagt, að fyrsta biblía barnanna sé foreldr-

arnir. þau sé spjaldið, sem börnin læri fyrst að lesa á um guð. þar læri þau fyrst að þekkja stafina í nafni guðs. En ef nú í þessari biblíu barnanna, á þessari opnu, sem liggr fyrst fyrir augum barnsins, er ekkert um guð, ef allt, sem ætti að segja frá guði, er tóm eyða, ef það, er upphaflega stóð á spjaldinu, hefir verið þurrkað út eða margstrikað yfir það, eða ef það, sem stendr þar um guð, er svo ljótt, svo afskræmt, svo fráfælanda, að barnið fær óbeit á guði og hrekkr burt frá honum,—myndi þá vera samvinna? Eru foreldrarnir þá að vinna að því, að barnið þeirra fermist í anda og sannleika? Eru þau ekki einmitt að ,,ferma" barnið út úr samfélagi við guð, en inn í heim guðleysisins og dauðans?

Svo er fermingarathöfnin sjálf, sem fram fer við opinbera guðsþjónustu. Aðalatriðið þar er *trúarjátning* barnsins. það játar hina kristnu trú, trú kristinnar kirkju, trúna, sem það hefir skírzt og upp alizt í. það segir: ,,Já, eg trúi, að guð sé faðir minn, að Jesús Kristr sé frelsari minn, og heilagr andi helgari minn." Barnið játar engu öðru en því, sem hver kristinn maðr játar og verðr að játa, ef hann á að teljast með kristnum mönnum. Barnið kemst ekki hjá því að játa þetta með því að fermast ekki, ef það á annað borð vill vera kristinn maðr. Eini vegrinn til að komast hjá kristinni játning er að játa, að maðr vilji ekki vera kristinn, eins og eini vegrinn til að komast hjá því að lifa er að taka af sér lífið. — En svo er *afneitanin*: ,,Eg afneita djöflinum" o.s.frv. Er nokkuð út á hana að setja? Eða er hún viðbót, sem ekki tilheyrir kristilegri játning? Fjarri því. Hún felst einmitt í hverri kristilegri játning. þótt ekkert væri sagt í þá átt með munninum, hlýtr hjarta þess, sem gjörir kristna játning, að segja það. Atriðið er tekið fram og áherzla lögð á það til þess að minna á, að það sé óaðskiljanlega sameinað kristinni játning. það snýr sér vitanlega enginn í sannleika *til* guðs, nema hann á sama tíma snúi sér *frá* hinum vonda og öllu illu. Kristinn maðr getr ekki þjónað tveimr andstœðum herrum. — þá er *heitið*: ,,Eg vil standa stöðugr allt til æfiloka". Sumir hafa á móti því. Segja, að barnið lofi þar því, sem því sé um megn. Hugsa, að tekizt geti að vera kristinn, án þess nokk-

urt þvílíkt loforð sé gefið. Hraparlegr miskilningr! Vitanlega er unnt að vera kristinn án þess loforðið sé gefið *opinberlega*; en óhjákvæmilega verðr kristið hjarta að gefa það; því það felst í afneitaninni og trúarjátningunni, svo framarlega sem hvorttveggja kemr frá hjartanu. Það er því barninu um megn í sama skilningi og allr kristindómrinn er því um megn. Væri það barninu um megn að lofa þessu, þá væri það barninu um megn að gjöra þessa játning: „Eg vil vera kristið barn." Ef það getr sagt það í hjartans alvöru, þá er það sannarlega ekki hugsan barnsins, að það vilji vera kristið að eins þann daginn, sem það gjörir þá játning eða næstu dagana á eftir. Vitanlega ekki. Því kemr ekki til hugar annað en að vera það æfinlega, alla sína daga. Hugsum oss móður, sem spyr barnið sitt: „Þykir þér vænt um mig, barnið gott?—„Já, elsku-mamma mín", segir barnið.—„Viltu þá vera mér hlýðið barn?"—„Sjálfsagt, mamma mín!"—„Hvað lengi ætlar þú þá að láta þér þykja vænt um mig og vera mér hlýðið?"—„Æ, mamma, hví spyrðu svona? Þú veizt, að mér mun æfinlega þykja vænt um þig og að eg vil æfinlega vera þér góður."—Segið mér nú: Væri ekki þessi játning barnsins eins sönn fyrir það, þótt barnið síðan óhlýðnaðist móður sinni í einhverju? Og þœtti ekki móður þess jafn-vænt um þessa játning barnsins fyrir það, þótt hún viti vel, eins og hver móðir veit, að barnið muni sjálfsagt í einhverju brjóta á móti henni, þegar hún er viss um, að hún á elsku barnsins síns?—Hún fullvissar barnið sitt um það með því að kyssa það. Myndi guð þá vera minni en móðirin,—hann, sem þekkir oss margfalt betr en nokkur móðir þekkir barnið sitt? Vissulega þykir honum vænt um játning vora, þegar hún kemr frá hjartanu, og þá eins um heitið, sem vér gefum honum, og hann gefr oss í staðinn föðurkoss sinn, innsigli anda síns, þótt hann vel viti, að vér á einhvern hátt verðum brotlegir. Því svo lengi sem hann á hjarta vort og hann sér, að það er einlæg löngun vor að vera honum hlýðin börn, þá á hann oss, vér erum hans, í náðarsamfélagi við hann, þótt vér brjótum þúsund sinnum á móti honum, annaðhvort af því vér vitum ekki betr eða vegna þess að viljinn til

hins góða hjá oss er svo veikr. Enda sýnir einlægni hjartans og það að hann á hjarta vort sig í því, að oss stendr ekki á sama, er vér verðum brotlegir, heldr fær það á oss og vér snúum oss til hans með bœn um náð — náð föðurlegrar fyrirgefningar hans og náð anda hans, svo vér fáum lifað sem hlýðin börn hans.

Þá er þýðing sjálfrar fermingarinnar fyrir fermingarbarnið. Myndi hún vera engin? Það hugsa sumir. En einnig það er vanhugsað. Eitt er víst: Hún gjörir játninguna og heitið barninu minnisstœtt. Hin helga og hátíðlega stund gleymist ekki svo hœglega. Þótt þykkt ryk virðist hafa lagzt ofan á allan þann helgidóm hjartans hjá sumum, og hann eins og horfið, líkt og borgir, sem fyrir eldsumbrot hafa verið grafnar undir ösku, þá lifir lengi í þeim helgidómi ofr lítill neisti hins helga elds frá altari drottins, sem síðar meir fer að loga og lýsa, þegar búið er að grafa öskuna ofan af. Þá má ekki gleyma því, að hin opinbera játning barnsins, ef hún er einlæg, hefir trúglœðandi og styrkjandi áhrif á barnið sjálft. Hún verðr því trúarleg staðfesting.

Þá er og þess að minnast, að fermingin öll, fermingarundirbúningr barnsins og fermingarathöfnin sjálf, á að vera barninu undirbúningr undir nautn heilagrar kvöldmáltíðar. Og er vafalaust það aðal-markmiðið, að leiða barnið inn að borði drottins svo undir búið, að hann þar sjálfr fái „fermt" það. Ekki að það leiti sér þeirrar fermingar þar að eins í það skiftið, heldr komi þangað oft, svo það iðulega og æ betr og betr fermist við hans náðarborð af hans náð.

---

## Biblíufrœðin nýja.

Eftir séra Björn B. Jónsson.

---

### II. INNBLÁSTRS-KENNINGIN.

Það er rangt og óafsakanlegt, sem séra Jón Helgason segir í „Verði ljós!", að eg hafi í „Aldamóta"-ritgjörð minni haldið fram kenning 17. aldar guðfrœðinganna um innblástr ritningarinnar. Eg mótmælti einmitt þeirri kenning, en hélt

fram því, sem nú er kennt almennt í lútersku kirkjunni, fullkomnum innblæstri (plenary inspiration). Eg skal síðar leitast við að gjöra grein fyrir muninum á skoðan 17. aldar guðfræðinganna og nútíðarkenning lútersku kirkjunnar.

En áðr en lengra er farið álít eg nauðsynlegt að skýra, hvað innblástrinn er í sjálfu sér.

Fyrst þarf maðr þá að gjöra greinarmun á *opinberan* og *innblæstri*.

Opinberan er það verk guðs, að hann beinlínis birtir mönnum einhvern sannleika, sem mannsandinn ekki hafði áðr þekkt og ekki gat þekkt.

Innblástr er það verk guðs, að hann varðveitir menn frá villu við að skýra frá opinberunum og skrá sögu hins sáluhjálplega ráðs hans í frumtextum heilagrar ritningar.

Ekki hefir allt það, sem skráð er í biblíunni, verið *opinberað* af guði. Það má með sanni segja, að biblían *innihaldi* opinberan guðs.

En allt, sem er í heilagri ritning, er *innblásið*. Sagan, sem sögð er í biblíunni, er sönn; tal og athafnir mannanna, bæði góðra og vondra, og jafnvel satans sjálfs, er þar skráð rétt og áreiðanlega. Hinum helgu höfundum var leiðbeint svo af heilögum anda, að þeir gátu farið rétt með allt, sem þeir skýrðu frá. Þetta nær til allrar biblíunnar, og því er rétt að segja, að öll biblían *sé* guðs orð, en ekki að hún *innihaldi* guðs orð.

Það sýnist líka vera skynsamleg ályktan, að guð hafi gjört sérstaka ráðstöfun fyrir því, að opinberanir hans og fyriræltanir sáluhjálp mannanna viðvíkjandi yrði lagðar fyrir heiminn réttar og sannar, og sögulegu atriðin opinberunarsögunni viðvíkjandi bæði á tíð gamla og nýja sáttmálans sögð og varðveitt áreiðanleg og óyggjandi. Og það er þetta verk, sem sjálfir biblíuhöfundarnir ávallt segjast vera að vinna.

Ekki hefir því verið neitað algjörlega af talsmanni nýju biblíufræðinnar á Íslandi, að til sé innblásið guðs orð. En hann hneykslast mjög á þeirri kenning kirkjunnar, að *öll* biblían sé guðs orð. Ágreiningrinn sýnist vera mestr um það efni.

Væri nú svo, að nokkur hluti biblíunnar væri innblásinn, en hitt alls ekki innblásið, þá lægi næst fyrir að semja nýja biblíu, búa til nýjan *kanon*, sleppa öllum þeim bókum og bókapörtum, sem vafi er á að skýri rétt frá, en halda svo hinu sem ómenguðu guðs orði. En saga „hærri kritíkarinnar" sýnir, að það myndi ganga nokkuð örðugt, því það er allt af verið á víxl að rífa sundr bœkrnar; sumir telja það „ekta", sem öðrum virðist ótœkt; bók, sem er í góðu gildi í dag, getr verið fallin á morgun; og það, sem þeir telja óhafanda í dag, getr verið gott guðs orð á morgun. Svona hefir það gengið. Þetta segi eg án þess að vilja gjöra lítið úr hinni „trúarlegu meðvitund", sem sagt er að muni í þessu leiðbeina manni. Eg ber djúpa lotning fyrir trúarlegri meðvitund mannsins — vel að merkja: þeirri trúarmeðvitund, sem er verk heilags anda.

En nú er oss kennt, að heilagr andi vinni náðarverk sitt (ɔ: skapi trúarmeðvitundina) í sálum kristinna manna með náðarmeðulunum. Séra Helgi Hálfdanarson kennir í barnalærdómsbók sinni, eins og allsstaðar er kennt í kristninni, að eitt náðarmeðalið sé einmitt guðs orð. Og hann segir oss, hvað guðs orð sé: „Guðs orð er *allt* það, sem guð hefir látið spámenn sína, son sinn Jesúm Krist og lærisveina hans til vor tala." Ef guðs orð er nú náðarmeðal, og ef það er satt, að heilagr andi vinni náðarverk sitt með náðarmeðulunum, eða með öðrum orðum, að náðarmeðulin sé verkfœri þau, sem heilagr andi vinnr með, og utan þeirra starfi hann ekki (venjulega), er þá ekki eðlilegra að segja, að náðarmeðalið (t. d. guðs orð) verki trúarmeðvitundina, heldr en að trúarmeðvitundin ákveði og velji náðarmeðalið? Getr afleiðingin fyrirfram ákvarðað orsök sína? Er ekki meira vit í að segja, að verkfœrið búi til hlutinn, heldr en að hlutrinn smíði verkfœrið?

(Meira.)

---

Séra Rúnólfr Marteinsson ferðaðist vestr til Alberta í haust allra seinast í Október og dvaldi svo þar í Íslendingabyggðinni út frá Tindastóls pósthúsi*) í nærri því tvo mánuði eða fram yfir jól. Söfnuðrinn íslenzki, sem þar er myndaðr og gekk inn í kirkjufélagið á síðasta ársþingi

*) Í bókagjafa-kvittaninni í síðasta blaði „Sam." (bls. 208) stendr tvisvar: Tindastól, Assa. Þar á að vera *Alta* (Alberta) í staðinn fyrir *Assa* (Assiniboia).

þess (í Selkirk), heitir Alberta-söfnuðr. Þennan tíma, sem séra Rúnólfr þjónaði þeim söfnuði, prédikaði hann venjulega tvisvar á hverjum sunnudegi, til skiftis á ýmsum stöðum. Um jólin fermdi hann 21 ungmenni. 9 börn skírði hann, tók um 70 manns til altaris, og hélt líkræður yfir tveim látnum mönnum, er áðr höfðu greftraðir verið. Alberta-söfnuðr sá að öllu leyti fyrir launum hans og ferðakostnaði.

Eftir nýár fór séra Rúnólfr til Nýja Íslands og tók svo að þjóna söfnuðum þeim þar, er sendu honum prestsköllun í fyrra. Hann hefir í vetr aðsetr hjá foreldrum sínum að Keldhólum norðr frá Hnausa pósthúsi, en býst við með sumri komanda að setjast að á Mœri skammt fyrir norðan Gimli.

---

Séra Oddr V. Gíslason hefir á langaföstu öndverðri farið í missíónarferð til íslenzku byggðanna við Manitoba-vatn, og skömmu áðr til Keewatin, Ont., þar sem nokkrar íslenzkar fjölskyldur eru búsettar.

---

„Sameiningin“ kemr í þetta sinn með myndir af tveim kirkjum, tilheyrandi söfnuðum kirkjufélags vors. Önnur myndin sýnir kirkju Lincoln-safnaðar í Minnesota, í prestakalli því, er séra Björn B. Jónsson þjónar, — eins og hún er að innan. Hún var vígð 3. Des. 1899, og er henni lýst í „Sam.“ XIV, 10. Hin myndin sýnir kirkju Selkirk-safnaðar að utan. Séra N. Steingrímr Þorláksson er þar prestr. Sú kirkja var vígð í sumar, sem leið, meðan þar stóð á kirkjuþingi, 24. Júní 1900. En hr. Gestr Jóhannsson hefir lýst henni í ritgjörð þeirri eftir hann um sögu Selkirk-safnaðar, sem stendr í „Sam.“ XV, 8.

---

Hr *Jón A. Blöndal,* 567 Elgin Ave., Winnipeg, er féhirðir „Sam.“

Hr. *Magnús Pálsson,* 309 Elgin Ave., sendir „Sam.“ út.



„SAMEININGIN“ kemr út mánaðarlega, 12 nr. á ári. Verð í Vestrheimi: $1.00 árg.; greiðist fyrir fram. —Skrifstofa blaðsins: 704 Ross Ave., Winnipeg, Manitoba, Canada.—Útgáfunefnd: Jón Bjarnason (ritstj.), Friðrik J. Bergmann, Jón A. Blöndal, Rúnólfr Marteinsson og Jónas A. Sigurðsson.

PRENTSMIDJA LÖGBERGS, — WINNIPEG.